VI.

Jón Borgfirðingur.



# Frú GUÐRÚN ÞORGRÍMSDÓTTIR.

Odda þ. 14da Jan. 1860.




97456.

Sálmabók Nr. 111, 7, 8.

---

# HÚSSKVEÐJA.

Innan skamms mun heimurinn ekki sjá mig framar, en þèr munuð sjá mig, því jeg lifi og þèr munuð lifa. (Jóh. 14, 19).

þessi orð Jesu Krists lýsa bæði þeirri beyskju og söknuði, er liggur í skilnaði þeirra, sem unnast, og líka þeirri huggun og von, sem gjörir guðhræddum hjörtum skilnaðinn bærilegan. Foreldrar, vandamenn og vinir, sjá ekki únglinginn, sem hrekst til ókunnugra landa; hann, hinn útlendi pílagrímur, sèr þá ekki heldur, hann er einsog horfinn frá þeim heimi, er hann var áður i, hverr þráir annan með söknuði. En sama von heldur báðum við; jeg lifi og hann mun lifa, segir hvor um sig og munum þess vegna sjást aptur. Lífsvonin samtengir hið fjarlæga; þess vegna er enginn verulegur aðskilnaður til nema dauðinn. Við dauðans aðskilnað er það því einkum, að allur sá harmur og allur sá fögnuður kemur í ljós, sem er fólginn í þessum orðum drottins vors; harmurinn kemur í ljós bæði fyrir vondum og góðum, en fögnuðurinn einúngis fyrir Jesu Kristi lærisveinum, því til þess að geta látið huga sinn fylgja látnum ástvin til betra lífs, þarf maður að hafa lært, að hefja hann til síns uppstigna og ósýnilega endurlausnara.

Innan skamms mun heimurinn ekki sjá mig framar. Hversu sárt hljóma ekki þessi sorgar orð frá hinum þögulu líkbörum, er vèr sjáum hèr í þessu sorgarhúsi, því hèr er sá skilnaður orðinn, sem slítur mörg viðkvæm bönd; heimurinn sèr þig ekki framar, vor framliðna systir, og þá ekki heldur allur sá ástvinahópur, er þú skilur eptir í heiminum. þegar guð kallar ástvinlausan einstæðing úr heiminum, þá er hverjum þeim, sem ekki er blindur,

hægt að sjá, að vegir drottins eru miskun og trúfesti; en hversu kröptuga trú þarf til að sjá það, þegar hinn látni hverfur svo úr heiminum, að ástríkur maður sèr ekki framar elskaða konu; þegar börn, sem eru búin að læra að elska foreldra sína, en ekki að reyna mæðu lífsins, sjá ekki framar hjartkæra móður; þegar systir sèr á bak systur, er stjórn drottins hafði látið hlotnast að búa saman, og þannig tengt minning æskuáranna saman við reynslu og mæðu fullorðins áranna; þegar aldraðir vandamenn sviptast ræktarfullri elskaðs náúnga aðhjúkrun; þegar fjarlæg móðir getur ekki lengur, í einstæðings skap sínum, sagt þessi orð í sömu þýðingu og fyrr: jeg lífi og hún mun lifa; þegar fjölmennt heimili sèr góða hússmóður skipta heimilisstjórninni við kyrrd og einveru grafarinnar; þá þurfum vèr, veikar mannskepnur, styrk frá þèr guð minn! ef vèr eigum að geta sèð miskunsemi þína í gröfinni og trúfesti þína í rotnuninni. En þessi sorgarorð eru ekki ný fyrir eyrum yðar, syrgjandi ástvinir; hin þrotna heilbrigði, hinn sóttþjáði líkami og hinn deyjandi munnur, hafa fyrir laungu sagt: innanskamms mun heimurinn ekki sjá mig framar, hafa sagt það svo skýrt og ljóst, að heimurinn hefir heyrt það. En ó þú heimur! hversu tilfinningarlaus ertu fyrir högum hinna sjúku og sáru, er segja þessi orð; þú sinnir ekki öðrum en þeim, sem lifa eingaungu í framkvæmdinni og nautninni, því slíkt líf gjörir ráð fyrir því, að þú sjáir sig lengi, þó opt bregði út af því, en hina deyjendu skoðar þú eins og fènað rekinn til slátrunar. En hvernig sem heimurinn lítur á þetta, er það þó hin lærdómsríkasta og veglegasta sjón fyrir guðhrædda vandamenn, já! fyrir sèrhvern þann, sem getur tekið þátt í kjörum annara, og hefur ekki holdið fyrir sinn arm, að sjá þrekmikla sál í veikum líkama, gjöra skylduverk sín til hins ýtrasta, að sjá hina lèmagna hönd, er sjálf þarf hjúkrunar, hjúkra og annast ósjálfbjarga lífs afkvæmi, að sjá þá, er þurfa nærgæta umönnun nánustu vandamanna, bera aptur umhyggju fyrír þeim, med fullri greind og ráðdeild, til hinnar seinustu stundar. Sú sjón ber vitni um, að guðs börn hafa meiri og veglegri hreysti til að byggja upp, en heimsins börn til að brjóta niður. Sú sjón hefur án efa, syrgjandi ekkill! styrkt þig til að bera krossinn með þínum sálaða ektamaka, með þeirri þolinmæði og nærgætni, er nú þegar verður endurgoldin þèr, með friði rósamrar samvizku og meðvitundinni um velþóknun guðs. Sú sjón hefur án efa syrgjandi ástvinir! gjört yður þá tilhuxun

bærilegri, að innan skamms munduð þèr ekki lengur sjá hana, í þessum heimi.

Jeg lifi og þèr munuð lifa. Víst rættust þessi orð þín drottinn vor; um það ber kristni þín vitni, að postularnir lifðu til að útbreiða þinn lærdóm, og að þú lifir til að biðja fyrir þeim sem á þig trúa. Þú vildir ekki hugga lærisveina þína með táldrægri von og villt það ekki enn í dag; þessvegna hljóma þau huggunarorð frá þessum líkbörum: jeg lifi og þèr munuð lifa; þau hljóma þaðan, því vor framliðna er burtsofnuð í trúnni á þann, sem sjálfur dó og uppreis, og sem sagði þessi orð, til huggunar við sorgbitna systur látins bróður: eg em upprisan og lífið, hverr sem trúir á mig, hann mun lifa þótt hann deyi. Svo sannarlega sem þèr, syrgjandi ástvinir! trúið því, að Jesus Kristur sè upprisan og lífið, svo sannarlega sem þèr trúið því, að hann lifi og ríki hjá guði, svo sannarlega megið þèr vera fullvissir um, að yðar andaða lifir þar, sem frelsari hennar er, og hvað er þá að syrgja stundarsigur grafarinnar yfir hinu veika holdi, þegar sálin er sloppin úr hinu kvalafulla fángelsi, og hún vinnur sitt nýja ætlunarverk, á hinu himneska föðurlandi, með ferskum kröptum, er ekki þreytast, sökum þess þeir eru styrktir af krapti Krists. Hún lifir þar, sem harmur og kvein er ekki lengur til; það var hvortveggja til fyrir hana hjá ydur, þó þèr gætuð ekki aðgjort. Guðs hönd afþerrar nú þau tár, sem þèr gátuð ekki þerrað. Syrgjandi ekkill! hún lifir til að biðja fyrir þèr, og svala með því hinni himnesku elsku, er hún ber nú til þín; lifir til að biðja guð að blessa þig og börn sín, og þú lifir, ekki einungis til að sakna og þrá betri samfundi, heldur til þess, að vísa börnum ykkar á þann veg sem leiðir þau til samfunda við þeirra sælu móður. Kæru börn! vitið það fyrir víst, þèr sorgbitnu smælingjar! að móðir yðar lifir, og að þèr eigið, samkvæmt guðs vilja, að lifa svo í þessum heimi, að þèr getið lifað með henni í öðrum heimi. Nú eruð þèr úng, en getið orðið gömul eins og sumir vandamenn yðar og þá ætti það að vera yðar ósk, sem nú er án efa þeirra kærasta huxun, að hún segi yður velkomin til guðs og til sín, og þá ósk munuð þèr fá uppfyllta, ef þèr kappkostið ætíð að vera hlýðin börn hins himneska föður. Já hún lifir og þèr munuð lifa syrgjandi ástvinir! að visu aðskilin, en þó jafn nálæg elsku guðs, sem er öllum allt á himni og jörð. Þèr hafið ekki annað að syrgja, en jarðneskan sjónarsvipti, því dauði líkamans

getur alldrei tekið neitt frá því hjarta, sem elskar í guðs nafni, dauðinn getur ekki slitið samband þeirra hjartna, sem eru samtengd í drottni, því guð lifir og börn hans lifa með honum beggjamegin grafarinnar.

Þèr munuð sjá mig, sagði Jesus við sína harmþrúngnu lærisveina, þessi orð rættust þegar þeir sáu hann, eptir þann sigur, sem hann vann yfir gröf og dauða. En gleði þeirra í hörmúngum og ofsóknum bar líka ljósan vott um það, að þeir voru sannfærðir um þeir myndu sjá hann aptur annars heims; það er ómögulegt að þeir sem lifa og elskast verði æfinlega aðskildir, við þá fullvissu styðst von kristins manns um sameininguna við frelsara sinn, og við hana styðst sú von guðhræddra ástvina, að þeir muni hittast aptur á landi friðarins, að kærleikurinn muni sameina þá aptur hjá uppsprettu kærleikans. Þèr munuð sjá mig. Þetta blessaða orð, sem er svo huggunarríkt, hvenær sem ástvinir verða að skilja, hljómar líka til yðar frá þessum líkbörum, þèr ástvinir hinnar látnu. Að vísu getið þèr ekki nú fylgt henni lengra en að grafarbarminum; þar skilja vegir hennar, sem nú hvílist eptir erfiðið, og yðar, sem eigið að vinna meðan dagurinn endist, en seinna munuð þèr fylgja henni, ekki einungis í gröfina, heldur munu sálir yðar, er voru svo nátengdar hennar sál, fylgja henni til guðs; sjálfir frelsaðir hittið þèr þá hina frelsuðu. Sannarlega verður skammvinnur sjónarsviptir bættur að fullu, þegar þèr sjáið hana og hún yður í guðs ríki. Sannarlega er það tilvinnandi að verða að þola sorg og söknuð, þegar það gjörir yður hæfa til slíkra samfunda. Það er von hinnar önduðu að senn komið þèr heim til hennar, og hið sama er von yðar; en sú von, sem er studd við loforð guðs, verður ekki til skammar. Það er þolanlegur söknuður, að vera á öðru fari en ástvinur vor, þegar vèr erum vissir um að ná farsællega hinni sömu höfn á hinu eptir þreiða föðurlandi. Það er að vísu sorglegt, að skilja við hjartkæran vandamann á grafarbarminum, þar sem moldin hylur hann fyrir augum vorum, en þess gleðilegra verður það fyrir yður, að sjá hana í ljósinu, þegar skýið er burttekið, sem hylur sál hennar fyrir augum yðar, eins og það huldi Jesúm fyrir augum lærisveinanna, þegar hann varð uppnuminn til himins.

Blessuð sèu orð þín lausnari vor! því þau eru líf vort, þau koma ekki einungis inní sorgarhúsin, heldur líka inní hin særðu og sorgmæddu hjörtun, svo þúngi sorgarinnar kremji þau ekki til

dauða. þau eru hið ósýnilega band, er samtengir himin og jörð, þau gefa jörðunni svölun hèr að ofan, þau samtengja hjörtu hinna sigrihrósandi guðs barna á himnum og þeirra, sem stríða hèr á jörðunni, svo það djúp, sem er staðfest milli himins og jarðar, verður þeim sem ekkert. þau safna öllum guðs börnum saman á himnum, þegar þau hafa kallað þau fram af gröfunum, og fullkomnað sameining himins og jarðar.

Blessun guðs orða hvíli yfir þessu sorgarhúsi og gjöri því söknuðinn bærilegan og hjálpsamlegan. Blessun guðs orða hvíli yfir moldum þínum, vor framliðna! eins og hún umvefur sálu þína. Blessun guðs orða láti þá, sem kveðjast hèr með trega, heilsast á himnum með fögnuði. Amen.

Passíusàlm. 25, 9, 10.

---

Sálmabók Nr. 155, 4-7.

---

Við jarðarför

# HÚSS-FRÚ GUÐRÚNAR ÞORGRÍMSDÓTTUR.

31. Jan. 1860.

þú ert, Drottinn! ljós og lífið, líkn og traust er orðið þitt! Í sorginni sèrtú vort ljós, og þegar dauðinn sýnir sig, þá gef oss að skilja, að þú ert lífið, að í þèr og hjá þèr er hið sanna líf, sem dauðinn aldrei yfirvinnur. — Ó, vèr vitum fyrir víst, að allt gjörir þú vel, enn þegar vèr ekki skiljum þína vegu, og vèr, — en þótt vèr ekki efumst um, að þeir sèu einskær miskun og trúfesti, — samt þurfum við huggunar og styrkíngar, láttu oss þá í þínu orði finna það, sem vèr vitum að í því er: líkn og traust, huggun og styrkleika. Já drottinn! gef oss huggun og styrkleika; Amen.

Og guð leit allt, sem hann hafði gjört, og sjá, það var alltsaman yfrið gott. Allt, sem guð gjörði, var yfrið gott. þetta orð þarf ekki að segja þeim, sem trúa á guð, því þeir þekkja það vel og þó munu þeir, sem trúa á guð, ekki vilja missa það úr heilagri ritníngu fyrir nokkurn mun. þetta orð er fullt kraptar og hugg-

unar; í því hafa menn, sem lá við að yfirbugast af andstreymi lífsins, fundið krapt fyrir sálu sína, og þeir, sem ekki gátu huggast við neitt annað, þeir hafa fundið huggun í því. — Að vísu hefir þetta orð einnig verið misskilningi undir orpið, enn vèr, kristnir menn, ættum þó ekki að misskilja það, því Kristus hefir kennt oss þess rèttu, fullu þýðíngu. — Á gamla testamentisins tímum efuðust menn, — einsog reyndar enn gjöra þeir, sem ekki eru börn nýa sáttmálans, — menn efuðust, ef ekki um, að guð gjöri allt vel, þá þó um það, að guð gjöri allt, eða hafi afskipti af öllu, sem hann vissulega gjörir og hefir afskipti af, já menn efuðust jafnvel um, að guð hefði afskipti af því ágætasta, sem vèr þekkjum af verkum hans, sem er maðurinn sjálfur. „Hvað er maðurinn að guð minnist hans?“ „Hvað er mannsins barn, að guð leggi það sèr á hjarta?“ — þannig sögðu menn. Enn Jesús sagði: Einginn titlíngur fellur til jarðar án yðar föður vilja. Enn fremur: öll yðar höfuðhár eru líka talin; óttist þessvegna ekki. Meir eruð þèr verðir enn margir titlíngar. Eptir Krists kenníngu hefir guð afskipti af öllu, einnig hinu allra minnsta. það, sem sjálfir vèr valla veitum eptirtekt og ekki einusinni vitum af, það veit hann, sem allt veit, og ekkert verður án hans vilja. Hversu mikill huggunar kraptur liggur í þessu á sorganna stundum. Ekki munu höfuðin hníga, án vitundar og vilja hans, sem talið hefir höfuðhárin! Ekki munum vèr falla til jarðar og í jörðu án vitundar og vilja hans, án hvers vilja einginn titlíngur fellur til jarðar. Ó nei, og á þessari sorgar stundu viljum vèr, kristnir menn, vèr, sem Kristur hefir uppfrædt og kennt að þekkja guðs föðurligu forsjón og afskipti af högum sèrhvers manns, leita huggunar og styrkíngar af þessu orði:

Guð leit allt, sem hann hafði gjört, og sjá, það var alltsaman yfrið gott.

Sorgleg er þessi stund. Vèr stöndum yfir liðnum líkama elskulegrar dóttur og systur og konu og móður. Og auk þeirra, sem henni voru og eru vandabundnastir, eru margir aðrir, að öðruleiti vandalausir, vanda bundnir henni, bundnir böndum vyrðíngar og elsku og þakklátsemi; því er nú, og hlýtur að vera sorg og söknuður í hjörtum margra. — Í því vèr ekki getum annað, enn minnst þess, sem mist er og sèð eptir því, þá látum oss líta yfir lífsferil hinnar framliðnu, ekki til að ýfa harma vora, heldur oss til huggunar.

Æfi

# FRÚ GUÐRÚNAR ÞORGRÍMSDÓTTUR.

Húss-Frú Guðrún sál. var fædd á Bessastöðum á Álptanesi 7. dag Janúarm. 1818. Foreldrar hennar voru hin valinkunnu hjón, gullsmiður og skólaráðsmaður Þorgrímur Thomsen og Ingibjörg Jónsdóttir. Hún ólst upp í foreldra húsum, og er mörgum knnnugt, að þessir foreldrar lètu sèr mjög annt um uppeldi barna sinna, og einkum um hugað, ekki einúngis að þau frömuðust sem best kostur var á, heldur ekki síður, að þau vendust á hvorskyns góða siðu. Þessa uppeldis naut hún í æsku, og hún naut þess síðan alla æfi, því „hvað úngur nemur, hinn eldri fremur."

18 ára gömul giptist hún um sumarið 1836 Prestinum, seinna Prófasti og Dannebrogsriddara, Sra Ásmundi Johnsen, og eignuðust þau í hjónabandi sínu 10 börn, þaraf eru 6 á lífi, 3 synir og 3 dætur.

Sama árið, sem hún giptist, fluttu þau hjónin sig híngað að Odda, og vóru þau hèr eptir það 10 ár; síðan, er manni hennar var veitt Reykjavíkur prestakall, fluttu þau sig í Reykjavík, 1846, og svo, eptir 8 ára þar veru, aptur híngað að Odda 1854. Hèr lifði hún síðan þau 5½ ár, sem eptir voru æfinnar.

Heilsa hennar, sem aldrei var sterk, var þessi seinustu árin mjög svo veik, og varð ekki við hjálpað af alúðarfyllsta lækni. Seinasta missirið lá hún, að kalla mátti, alltaf rúmföst, en þó sjaldan mjög þúngt haldin; Hún andaðist laugardaginn, 14. dag Janúarm. 1860, rúmlega 42 ára gömul.

Þó þessi framliðna þannig ekki kæmist hjá mæðu og andstreymi, sem vanalega „samferðast lífsins dögum", þá voru henni veittir margir farsællegir hlutir, ekki einúngis útvortis, góðir foreldrar, gott uppfóstur, góð systkyni, góð giptíng, góð og efnileg börn, heldur ekki síður innvortis, afbragðsgóðar gáfur, næm tilfinníng fyrir því, sem fagurt og gott er, og gott hjarta. Um þetta hefi jeg, sem sjálfur var henni lítið kunnugur, heyrt alla, sem þekktu hana vel, vera samdóma; og það þurfti ekki mikin kunnugleika til að sjá, að það var satt; góðmennskan og gáfurnar skinu fram í augum og andliti, og framgángan öll bar, jafnvel ókunnugum, ljósan vott um lifandi tilfinníngu fyrir því, sem vel sæmir og vel fer. Að öðru leyti var hún, að vitni þeirra, sem allra best þekktu hana: „einhver hin ástríkasta dóttir, ræktarfyllsta móðir og

maki og hússmóðir, trygg og staðföst, hreinskilin og vönduð í öllu framferði sínu.“

þannig er það víst, að guð hafði gèfið henni margar góðar gáfur; og þó oss sýnist, að nokkuð, og ekki lítið, hafi vantað af því, sem til þessa lífs farsældar heyrir, þar sem heilsuna vantaði — auk annars, sem án efa einnig hefir vantað, þó ekki væri eins augljóst — þá viljum vèr í trausti til hans, sem sèr, hvað sèrhverjum er fyrir bestu, og sem hvorki skortir mátt nè speki, nè heldur gæðsku til að láta það koma fram, — í traustri trú til hans viljum vèr ekki láta þetta draga úr þeirri þakkargjörð, sem hann á skilið fyrir það, er hann veitti henni; vèr viljum ekki segja: margt var það gott, heldur viljum vèr segja: allt var það gott. Eða munum vèr þora að neita, að sú reynsla, sem guði þóknaðist á hana að leggja, hafi verið góð, þó vèr að vísu ekki skiljum, að henni hafi verið þörf þvílíkrar reynstu fremur mörgum öðrum, sem hjá henni komast; Munum vèr voga að neita, að þegar guði nú, á þessum honum þægilega tíma, leysti hennar sál úr líkamans fjötrum, þá hafi einnig það verið gott, þó því að vísu hèr verði að fylgja sorg og söknuður. Nei; og einsog vèr fyllilega trúum, að þessi vor sæla systir nú lofi og vegsami guð, fyrir alla hans handleiðslu á sèr og fyrir sína lausn og frelsun frá þessa heims fallvaltri veru til hans himneska dýrðarríkis, svo viljum einnig vèr lofa hann og vegsama í þeirri trú, að ekkert verði án hans vilja, að á hans valdi sèu allir hlutir, og að allt, sem han gjörir, sè yfrið gott.

Og vissulega er dauðinn sorglegur, einkum þegar menn burt kallast á miðjum degi lífs sins; en hversu sorglegur, sem hann er, þá getur hann þó verið yfrið góður, — já þess hefir verið spurt, hvort í sjálfu sèr væri betra, líf eða dauði, og því hefir verið svarað á fleiri vegu, enn einn. Einn, sá sem vitrastur hefir verið talinn af fyrri tíma mönnum, hefir svarað því svo: Dauðadagurinn er betri enn fæðíngardagurinn, enn hann endar sína ræðu með þessum orðum: þetta er hègómi. Og sannlega, ef vèr vildum spyrja, hvor þessara daga væri betri, þá væri það hègómlegt, og ef vèr vildum svara því, þá væri það hègómlegt, — eins og honum sem báða þá gjörði, eins og guði sèu, ef so mætti segja, mislagðar höndur, so að hann gjöri sumt vel, enn sumt síður enn ekki vel. þetta vitum vèr, að líf og dauði eru í hendi drottins, og að hvort, sem vèr lifum, þá erum vèr á drottins valdi, eða vèr deyjum, þá erum vèr eins á drottins valdi. þetta vitum vèr, að guð er hinn

sami frá eilífð til eilífðar, og að allt, sem hann gjörir, er yfrið gott. — Fyrir vorum sjónum er það gott, að sá lifi, sem lifir til góðs, til gagns og til gleði sjálfum sèr og öðrum, oss sýnist það gott, bæði fyrir sjálfan hann og aðra þá, sem lífs hans njóta; enn ef einhverr vildi spyrja hvort mun betra að hann lifi eða deyji, þá gètur einginn leyst úr þeirri spurníngu annarr, enn sá einn, sem ræður lífi og dauða. Vèr getum ekki svarað öðru enn þessu: lifi hann, þá er það betra, að hann lifi, deyji hann, þá er það betra, að hann deyji, því sá ræður lífi og dauða, sem veit hvort betra er, og hvað best er, og hvað sem hann gjörir, þá er það víst, að það er alltsaman yfrið gott. Þetta er vor játníng, það sè einnig vor staðföst trú.

Sumum þykir, að í þessari játníngu og í þessari trú sè lítill lærdómur og lítil huggun; Sumum þykir það lýsa andans fátækt og kraptleysi í sálunni, að láta sèr þykja, eða að segja það best, sem er; og það er vitaskuld, að þessi kenníng verður misskilin og misbrúkuð, einsog allt annað; Vèr viljum ennfremur játa, að sè þessi játníng á vörunum einúngis, þá sè í henni eingin lærdómur og eingin huggun, þá sè hún fátækleg og kraptlaus; — Enn sè þessi játníng, sem er samkvæm meðvitund vorri um guð, og svo guðs eigin orði, sè hún í hjartanu, sè hún orðin að stöðugri trú, þá er vissulega í henni mikill lærdómur, mikil huggun, mikil auðlegð, mikill kraptur. — Ó, þegar menn líta á viðburðanna rás í heiminum, þegar menn virða fyrir sèr stríð og styrjöld, sem niðurbrýtur friðinn mannanna á milli, og leggur í eyði lönd og lýði, og svo margt fer öðru vísi enn það ætti að fara, þá veit jeg ekki við hvað menn eiga og við hvað menn geta látið hugana hvíla annað, enn þetta, að almáttugur, alvitur óg algóður guð þó stýri og stjórni öllu. Og þegar sorgin stríðir á sjálfa oss, og vill niðurbrjóta friðinn hjartna vorra, þá veit jeg ekki heldur, við hvað vèr eigum og við hvað vèr getum látið hugan hvíla, annað enn þetta, að vor guð er á himnum og gjörir allt, sem honum gott þykir, — við hvað vèr eigum eða getum betur huggast enn við umhugsunina um hann, án hvers vilja, eptir Krists eigin orðum, einginn titlíngur fellur til jarðar, — við umhugsunina um hann, sem ætíð er verkandi allt í öllu eptir sinni vild, hann, sem aldrei er fjærlægur neinum af oss, hann, sem vèr lífum, erum og hrærumst í. Geti sú huggun, sem í þessu er fólgin, og af þessu flýtur, kallast fátækleg, þá kemur hèr fram, að sælir eru þeir fátæku í

andanum, því þeir kannast við, og að nokkru leiti þekkja dýpt auðæfanna speki guðs og gæðsku; geti hún kallast veikleg, þá sýnir sig hèr hið veika guðs kröptugra, enn hið sterka mannanna, já vissulega, í þeim veikleika sýnir sjálfur guð sig máttugan.

Faðir minn vinnur allt til þessa tíma, sagði Jesús. Og vèr vitum, að einsog guð í upphafi skapaði allt, bæði stórt og smátt, svo viðheldur hann öllu og stjórnar öllu, bæði stóru og smáu, og einsog hann, er hann í upphafi leit allt, sem hann hafði gjört, og sjá, það var alltsaman yfrið gott, svo hlýtur hans stjórnan alla tíð að vera vísdómsfull og góð, og hún getur ekki öðruvísi verið, enn yfrið góð. — þessi vissa, sem er svo almenn og svo fast innrætt, ætti hjá oss ætíð að bera þann ávöxt, að vèr ætíð sèum af öllu hjarta ánægðir með hans stjórnun og umráð. þenna ávöxt þessarar trúar gefi góður guð þeim, sem hann sorgina sendir; Hann gefi þeim náð að gæta þess, að það er hann, sem öllu stjórnar og að allt, hvað hann gjörir, er yfrið gott. — þetta viljum vèr jafnan hafa í huga og jafnan gæta þess, en þeir vita það, sem átt hafa í straungu stríði við sára sorg, hvernig allt, sem þeir vissu, einsog hvarf burt úr huga þeirra, og þeir gættu ekki neins, meðan á stríðinu stóð, nema sorgarinnar einnar. Og svo víst, sem það er, að líkamans auga sèr að eins óskýrt og einsog í þoku, þegar það stendur fullt af tárum, svo víst er það, að hin sömu tár opt gjöra óskýra sálarinnar sýn og einnig svo sem í þoku; En þegar þessari þoku lèttir svo, að vèr sjáum sólina guðs náðar, sjáum ljóslega í byrtu þessarar sólar, að það er hann, allsstjórnarinn, sem ræður því, er oss er óviðráðanlegt, einnig því, sem oss þykir allra þýngst, þá missir sorgin þegar sinn sárasta brodd, og broddur hennar sljófgast þess meir, sem vèr betur fáum hugsað um guð og hans vilja, og á endanum fer svo, að sorgin sjálf verður oss til ununar í undirgefninni undir guðs vilja. — Og þessvegna viljum vèr biðja guð, að hann nú og jafnan gefi þeim, sem harma, fyrst og fremst náð til að gæta þess, að það er hann, sem öllu stjórnar, og að allt hvað hann gjörir er yfrið gott.

Guð gefi þèr, sorgmæddi ekkill! himneska huggun í þessari trú. Ó, jeg veit, að þú geymir þessa trú í hjarta þínu, svo sem einn þess besta fjársjóð, og að þú, í líkum kríngumstæðum, hefir huggað aðra með þessum sama trúarlærdómi. — Jeg minnist þeirra fögru trúaðs manns orða, sem sjálfur þú talaðir fyrir nokkrum árum yfir líki framliðins manns, og fæ ekki bundist að hafa þau upp:

„þegar sár ástvina missir særir hjarta vort, þá mun öll mannleg speki, allar skynseminnar fortölur, öll jarðnesk huggunarmeðöl fánýt reynast, ekki fá huggað hið sorgmædda hjartað, ekki þerrað tárin af augum oss, ekki sefað þann harm, er innra býr, heldur láta oss jafnvel ennfremur finna til þess, hve vanmáttugir vèr erum og ónógir sjálfum oss. — Enn sú trú: allt hvað guð gjörir er vísdómsfullt og gott, hún hjálpar oss, ekki eingúngis til þess að þegja, heldur líka í trú öruggir að upphefja höfuð vor, hún sendir byrtu í þá sálu, er áður var hulin sorgardymmu, hún hughressir það hugskot, er áður var af sorg sundur kramið, hún græðir hjartans sár, og breytir líksaung í helgan einglahljóm, er veitir þeim sorgmædda forsmekk eilífrar gleði.“ *)

Hvers fæ jeg betra beðið, enn að góður guð nú láti þessi orð á sjálfum þèr sannast og öll uppfyllast. — Hún, þessi trú, að allt, sem guð gjörir, sè vísdómsfullt og gott, hún hjálpi þèr til öruggur að upphefja höfuð þitt, hún sendi byrtu í sálu þína, hún hressi huga þinn, hún græði þitt hjartans sár, hún breyti fyrir þèr líksaungnum í helgan einglahljóm, hún veiti þèr sorgmæddum forsmekk eilífrar gleði.

Þó móðirinn gæti gleymt barni sínu, þá vil jeg samt ekki gleyma, segir drottinn. — Móðurástinni er viðbrugðið svo sem hinni viðkvæmustu og nákvæmustu ást á jörðu, og það er tekið til þess, svo sem þess ólíklegasta, að móðirinn geti gleymt barni sínu. — Ó, hèr liggur ein móðirin andvana! Ekki getur hún framar sýnt börnum sínum þann vandláta og umvöndunarsama, en undireins ástríka og umhyggjusama kjærleikan, í einu orði þann viðkvæma móður kjærleikan. — En, faðir og móðir yfirgáfu mig, en þú, ó guð, yfirgafst mig ekki. Og þetta sè barnanna huggun, og vor huggun með tilliti til þeirra, að guð, sá sem allt gjörir yfrið vel, gleymir eingum og yfirgefur eingan. Hann, sem að vísu er vandlátur guð, en undireins kjærleikurinn sjálfur, hann veri með þeim á lífsins leið og gjöri þau hluttakandi síns kærleika, sem betri er, enn kærleiki föður eða móður; hann láti einnig á þeim sannast, að allt, hvað hann gjörir, er yfrið gott.

Jeg get ekki annað, enn hèr minnst hinnar margreyndu móður, sem hèr hefir átt á bak að sjá elskaðri dóttur, og sem reyndist einnig mèr góð móðir, þá jeg var fátækur og fjærri mínum. —

*) Ræður við útför skólapilts F. B. Thorarensens, Rvík 1848, bls. 7-8.

Guð veri með henni. Hann huggi hana í þessum harmi, sem nú hefir henni að höndum borið, og gefi henni því meiri gleði af börnunum, sem hún eptir á; hann hjálpi henni það eptir er, bæði í lífi og dauða.

Guð huggi einnig systurina, þó margmæddu konu, sem átt hefir á bak að sjá svo mörgum ástvinum, elskulegum föður, ástríkum manni og mörgum börnum, og sem nú hèr á meðal vor harmar sína einustu ástkæru systur, er hún, þó leiðirnar skildu um stund, samt leingst af varð samferða á lífsins vegi. — Trúlega lètti hún undir byrði systur sínnar í því, sem hún mátti, — nú lètti guð hennar byrði, sorganna byrði, lífsins byrði, og þegar hann algjört aflèttir allri byrði, þá gefi hann henni sælan samfund með öllum hennar sofnuðu vinum í sínu himneska ríki.

Guð huggi alla hina adra, sem hèr harma, já hann huggi oss alla og hjálpi oss öllum saman mest og best þá, þegar oss mest á liggur; Hann veri með oss á öllum vorum vegum, en vèr viljum gefa gætur að hans vegum, og gefa honum dýrðina, hvort sem hann sendir oss blítt eða strítt, auðmjúklega viðurkennandi, að allt, hvað hann gjörir, er yfrið gott.

Með þessari viðurkenníngu vil jeg enda, — jeg vil enda það, sem jeg hefi talað á þessari mæðustund, með viðurkenníngu og bæn þess manns, sem vissulega vissi, hvað mæða er. En þetta er hans viðurkenníng og bæn:

Það er svo margt og mikilsvert,
minn drottinn, sem þú hefir gjört,
mig við um mína daga;
allt var það gott, jeg þakka þér;
þín forsjón mild útbýtti mèr,
því, sem best hèr nam haga.
Faðir! Faðir!
veiti lið mèr, það eptir er,
og öllum líka,
Guðdómur þinn og gæðskan ríka.

Amen. Í J. N. Amen.

Sálmab. Nr. 205, 2, 8-11.

Þo eg hafi litlu að bæta við það, sem svo fagurlega hefur verið mælt, yfir þessum líkbörum, þá lángar mig samt til, k. V., — og eg vona Guð gefi mèr styrk til þess, — að tala fáein orð, áður þessa dökka líkkista er alveg frá mèr tekin, og látin niður í hina köldu, dymmu gröf, og eg vona þèr virðið mèr það til vorkunar: því auk þess, að engum er hèr skyldara að tala enn mèr, og það því fremur, sem það var ósk hinnar framliðnu, „þareð enginn þekti sig betur enn eg", — og hennar ósk ætti líklega að vera mèr heilög, — þá veit líka hverr sá, sem eitthvað mótdrægt hefur reynt, að það er svölun fyrir hið hrygga hjartað, að tala við aðra um sitt sorgar-efni, og hverr, sem til þekkir, veit að hèr er ekki lítið sorgar-efni fyrir mig og mína.

Eða er það ekki þúngbært, að verða að sjá þá á besta æfiskeiði heilsu svipta, og verða að leggia þá í jarðarinnar skaut frá mörgum, óúppkomnum börnum, sem móðir elskar heitast allra á jörðu, og sem elskuðu oss heitum, staðföstum kærleika, og það því fremur, sem þeir voru fleiri mannkostum búnir? Og skyldu ekki allir, sem rèit þekktu þessa mína önduðu, liúka upp sama munni um það, að þar bió fríð sál í fríðum líkama? að ekki sè ofhermt, þó um hana sè sagt hið sama, sem munnur sannleikans forðum sagði um Natanael: sannur Israeliti, í hverjum ekki eru svik.

Já, hiartað var hreint, alveg svikalaust: allt óhreinlyndi, allt undirferli, allur fagurgali, að vilia sýnast önnur en hún var, var henni alveg fiarstædt, að segia ósatt, að tala þvert um huga sinn var henni ómögulegt. Það sem hún talaði, sú góðvild, sem hún sýndi öðrum, var hreinskilnislega meint. Já, hún gat ekki einusinni trúað öðru um aðra, en að því væri eins varið með þá, og hún var í því, eins og yfirhöfuð, laus við alla tortryggni.

Að láta gott af sèr leiða, að gefa og útbýta og gleðja aðra var hennar mesta yndi, og hún var mjög örlát og höfðinglunduð í öllum útlátum, og það gjört, sem hún vildi gjöra; sèrplægni og ásælni þekti hún ei. Ef einhver bágstaddur leitaði hennar hjálpar, eða hún heyrði getið um einhver bágindi, þá var það víst, að hún gat ekki liðsinnt, ef hún ekki gjörði það, já, hún gjörði það opt, þó hún ekki gæti það, því góðvildin og góðsemin var so mikil, að hún mátti ekkèrt aumt vita.

Við þá, sem henni einusinni varð vel við, við vini sína og

vinkonur, var trygð hennar óslítandi, og hún vissi ekki hvað gott hún vildi gjöra þeim. Við þá, sem voru í brauði hennar, og reyndust henni vel, var hún góð, vorkunlát, ræktarfull hússmóðir, og lèt það í verki ásannast, einnig laungu eptir að þeir voru frá henni farnir; enda gaf Guð henni líka það lán, að eiga mörg góð hjú, og þau, sem seinast voru henni við hönd, eiga hvert með öðru innilegasta þakklæti skilið fyrir það, með hvílíkum fúsleika, góðsemi og nákvæmni þau stunduðu hana á hennar banabeð. Ef einhverr hafði einhverntíma synt henni eitthvað gott, gat hún aldrei gleimt því, og hún vildi sannarlega vera öllum þeim góð, sem henni veru góðir, eins og líka, ef einhverr hafði gjört henni eitthvað ímóti, þá gat enginn verið fljótari enn hún að gleima því, ef hún sá, að sá, sem brotið hafði, vildi hafa það ofgjört.

Allt, sem vel fór, gladdi hana hjartanlega, allt sem fagurt var, sómasamlegt og gott, elskaði hún innilega, og hún hafði næman smekk, næma tilfinníng fyrir öllu, sem þar að laut, og það var hennar hálfa líf, að hafa allt íkríngum sig sem laglegast og þokkalegast. Hvar, sem hún varð vör við, eða hèlt að byggi gott, guðrækilegt, kærleiksfullt hjartalag, þar drógst hún að, og eg held mèr sè óhætt að segia, að hverr, sem vandaður var, velþenkiandi og gáfaður, og einhver kynni hafði af henni, líka drógst að henni, því alt hennar tal var so vandað, viðfeldið, hreinskilið og skemlilegt, hún í allri framgaungu og hegðan miög hæversk og siðlát, og það var eins og yfir yfirbragði hennar hvíldi eitthvað eðallyndt og kvennlegt. Þessvegna var hún líka strax, sem barn, í afhaldi hjá þeim, sem voru á sama heimili og hún, og þetta fylgði henni allt lifið, því hún átti alltaf því láni að fagna, hvar sem hún var, að hún var mjög vinsæl, svo eg held ei ofsagt, að hún hafi verið hvers manns hugljúfi, og eg veit ekki til, að nokkrum hafi nokkurn tíma verið illa við hana.

Hún elskaði Guð af rót, og alt guðlegt var henni heilagt, og það var eins með þetta og annað, að hún lèt sèr annara um að vera, en að sýnast.

Hve heitt hún elskaði foreldra sina, hve góð og ræktarfull hún var við sína góðu, margreyndu móður, við systkyni sín, við systurdóttur sína og aðra ættingia, það vita þau sjálf, og munu ekki gleima, eins og þau lika voru eins við hana, og hafa verið og munu verða, það er mín huggan, við hennar eptir lifandi ástvini.

Hve góð móðir hún var, hve viðkvæm, hve innilega hún elskaði börn sín, — eins og þau líka aptur elskuðu hana, — hve annt hún lèt sèr um þeirra sönnu heill, um að gleðja þau og gjöra þeim allt gott, því vona eg, ad þau af þeim, sem til vits og ára eru komin, aldrei gleimi, og bið Guð að gèfa þeim náð þartil. Ekki elskaði hún þau samt svo, að hún ekki sæi brest þeirra, að hún ekki leitaðist við að þekkja þau sem best, til að geta lagað það, sem áfátt var; nei, enginn gat verið umhyggjusamari enn hún um það, að þau sem best varðveittust flekklaus af heiminum, ekki spiltust af vondri umgengni, ekki heyrðu ljótan munnsöfnuð, heldur mentuðust í öllu góðu, venðust sem best, og eg vona til Guðs, að það hèr eptir, eins og hingað til, muni bera hjá þeim heillaríkan ávöxt. Já, eins og hún sjálf hafði átt þá foreldra, sem flestum fremur lètu sèr annt um uppeldi barna sinna, lètu sèr annt um, að þau til munns og handa lærðu allt, sem gat verið þeim til gagns og prýðis í lífinu, eins vildi hún einnig i þessu sem öðru leitast við að feta í þeirra fótspor.

Hvílíkur maki hún var, þar um sè mèr að eins leift at segia þetta: að svo sannarliga sem það er mikið lán, að eiga þá konu, sem hvervetna er í miklum metum fyrir hverskyns kvennprýði, sem hvetur til alls góðs, hvervetna vill koma fram til alls góðs, sem varar við öllu, sem miður er, sem af hiarta elskar alla reglusemi og góða siðu, sem þegar á reynir, reynist best, sem ekkert má vita ama að þeim, sem hún hafði gefið hiarta sitt, sem er vakin og sofin í að uppala börn sín til guðhræðslu og góðra siða, og gjörir allt, sem hún getur, til þess að allt á heimilinu fari sem best og sómasamlegast fram, — þá hefi eg átt þessu láni að fagna, og þakka góðum Guði þar fyrir.

Í einu orði, eins og atgjörfi sálar og líkama var mikið, eins var það líka vel brúkað. Gáfurnar til munns og handa vóru ágætar, og eins og hún hafði mikið gaman af að líta í bók, og skildi og mundi vel það, sem hún las, og var fróð, eins var hún líka vel að sèr í hverskyns handiðnum, og miög vandvirk, og lèt það ekki forsómast, sem gjöra þurfti. Líkaminn var fagurlega myndaður, en heldur veikbyggður, og mörg seinustu ár æfinnar var heilsan miög lin, svo að segja mátti, að hún þá opt drógst á felli meir of vilja enn mætti, og má eg þó með þakklæti viðurkenna, eins og hún líka sjálf gjörði það, að allt var reynt, sem varð henni til heilsubótar.

Hið seinasta ár, sem hún lifði, mátti valla segja að hún stígi á fætur; kraptarnir þverruðu sýnilega smátt og smátt, og þó hún í þessari banalegu sinni sjaldan væri miög þúngt haldin, sem ekki var lítil Guðs náð, þá var hægðin samt opt lítil, og hinn borni bikar næsta beiskur. En hve beiskur, sem hann var, þá er hann þó nú í botn úttæmður, öll jarðnesk mæða ytri og innri á enda, þessu örðuga stríði lokið.

Og skyldum vèr ekki prísa hana sæla, að hún hefur það allt fullkomnað? Hún rækti trúlega sitt kall meðan dagur var, stóð með sóma í sínum sporum, bar með þolinmæði og undirgefni undir Guðs vilja hið seinasta örðuga stríð. Já — oss, sem við vorum, þegar hún lètst, mun lengi reka minni til, hve fagur hennar dauði var, hve hjartanlega hún með þakkar, blessunar, og bænar-orðum kvaddi oss, vini sina og vandamenn, sendi þeim kveðju sína, sem fjærverandi vóru, hve rósamt, stillt og guðlegt hennar sinni þá var, hversu hún með bljugu, auðmjúku geði í sjálfu dauðans stríði ákallaði Guð og Krist, — því mál og ræna var alveg óskèrt fram í sjálft andlátið, — og eg þykist viss um, að hverr, sem við hefði verið, hefði hlotið með oss að undirtaka: það er fallegt að deyja svona; gef mèr, góði faðir, að deyja eins og hún! Og — skyldum vèr þá ekki prísa hana sæla, að hún þannig hefur allt fullkomnað, að hún er nú flutt frá þessa lífs vetri til eilífðarinnar fagra sumars í friðarins og sælunnar bústöðum?

Já — faðir! þú hefur hana til þín kallað, meðtak vort þakklæti, þakklæti tárum, sárri sorg blandað, en þó þakklæti, hjartanlegt heitt. Þú gjörir allt vel! Þú gafst oss hana, lánaðir um stutta stund, og hefur hana nú aptur tekið! Það var þèr frjálst. Hún var þín; þitt ráð er kjærleikur, þínir vegir miskun og trúfesti, og það einnig þá er þeir eru oss skammsýnum of háir.

En, goði Guð, við hvað er nú að hugga sig, þegar þínir vegir þannig ekki eru vorir vegir. Ó, þegar þannig ber undir, þá er það ekkert til á jörðu, sem fær huggun veitt; jörðin með öllum hennar gæðum er offátæk til þess, þá að veita hina minnstu svíun. Eða myndum vèr ekki gjarna og með gleði láta allt, sem vèr eigum og undir hendi höfum af þessa heims gæðum, ef vèr þar með gætum veitt elskuðum vin heilsuna aptur, leist hann úr helju og kallað til lífsins aptur? Og við hvað er þá að hugga sig? Hèr gefst ekkert annað ráð, en að upphefja sitt höfuð og líta í hæðir, líta upp til stjarnanna, upp til hans, sem ofar stjörnum

býr, til föðursins á himnum, upp til hinna sælu himinbúa, og svo að bera sig að gegna sínum störfum, að taka sèr fram í öllu góðu, og þannig að gjöra sig þess verðugan ásíðan að fá einnig þángað að koma.

Ó, svo far þá sæl, ástkjæra framliðna! hvíl sætt og rótt við hlið elskaðs bróður, við hlið elskaðra barna hanns og okkar! Vèr náúngar þínir, sem eptirlifum, já margir fleiri nær og fjær, mænum áeptir þèr hryggir í huga með sárum söknuði; en vèr viljum bera oss að fagna af þínu fengna frelsi. Vèr lofum Guð fyrir það, að hann gaf oss þig, því það er þó sannarlega þakkarvert, að hafa átt þá dóttur, þá systur, þá móður, þann maka, sem meðan lífið endtist var til sóma og stoðar, sem við dauða sinn er hörmuð af öllum góðum, og hverrar fagri lífsferill lengi mun verða þeim minnisstæður, sem hana rètt þektu. Þèr líður vel þar, sem þú nú ert, svo sannarlega, sem það stendur stöðugt, að hreinhjartaðir muni Guð siá. Meðan þú lifðir hèr var kærleiki þinn til vor tryggur og staðfastur, og hann mun í dauðanum ekki hafa kólnað, í þínu dauðastriði var þín síðasta hugsun helguð oss, helguð Guði og Kristi. Ó, elskaða sál, bið Guð einnig fyrir oss á hæðum, bið Guð að halda hendi sinni yfir oss, að hiálpa oss að hegða oss þannig, að vèr ásíðan, þegar hèðan förum, fáum líka að koma þángað, hvar þú ert.

Og nú að skilnaði:

Drottinn blessi þig, hjartkæra frammliðna, og varðveiti þig!

Drottinn láti sína ásjónu lýsa yfir þig og sè þèr náðugur!

Drottinn upplypti sinu augliti yfir þig, og gefi þèr frið.

Og svo vil eg þegja, og mínum munni ekki framar uppljúka, af því þú, Drottinn, gjörðir það. Amen, í Jesú nafni, Amen.

Sálmab. Nr. 363.

---

Á skildinum:

Hèr hvilir lík

hússfrúar GUÐRÚNAR ÞORGRÍMSDÓTTUR,

sem fæddist 7 Jan. 1818,

giptist 2 Júl. 1836

prófasti ASMUNDI JÓNSSYNI,

eignaðist með honum 10 börn,
hvaraf 6 lifa,
deyði 14 Jan. 1860.

---

Gáfurnar vóru afbragð,
elskan til Guðs, hins góða, fagra og sómasamlega innileg,
hjartað hreint, höfðinglúndað, kærleiksfullt, staðfast og tryggt;
þessvegna var hún:
ástrík og ræktarfull dóttir, systir, vinkona,
dygðarík og viðkvæm móðir, hússmóðir, maki,
hvers manns hugljúfi.

---

Hreinhjartaðir munu Guð sjá.
Matth. 5, 8.

---

Hèr hvílir

hússfrú GUÐRÚN ÞORGRÍMSDÓTTIR

fædd 7 Jan. 1818
gipt 2 Jul. 1836

prófasti, sèra ÁSMUNDI JÓNSSYNI, R. D.

átti með honum 10 börn,
lifa 6 þeirra ásamt syrgiandi föður,
dáin 14 Jan. 1860.

Hún hafði gáfaða sál og gott hjarta,
var ástríkur maki og móðir,
vinur, sem mátti treysta,
og glaður gjafari,
þann guð elskar.

Fleyri en fègiarnir eiga
fjársjóð í jörðu;
þar á sèr ángraður ekkill
ástkæran maka;
þar eiga börn sèr í blundi
hið blíðasta hjarta,
hjarta, því áður þau undir
ólust til lífsins.

Eiga þar aumir og hrjáðir
auðmilda höndu,
framar í gröf ei hún gefur
nè grátstafi bætir;
vinir þar eiga þann ástvin,
er alldrei rauf tryggðir;
þar á sèr Guð sjálfur gjörfi
göfugrar sálar.

Sá er þó auðurinn æðri,
er uppheimar geima,
Guð velur geimslustað sálu
gröfinni betri.
Grátið ei fjársióð í foldu,
hann felst þar ei lengi,
Gleðjist með ástkærum anda
í upphæða ljósi.

Sk. G.

---

Sænskt lag: *I rosens doft, i blomsterlundens gömma.*

Á systur leiði jurtir grænar glóa
Og gröfin stendur blóma klædd í skart;
En undir blundar þjáð og þrekað hold
Í þúngum draumi, svartri hjúpað mold
:|: Odáins fræ sem á hjá Guði að gróa. :|:

Að frævinu mun dauði dapur hlúa
Uns Drottinn vekur það til betra lífs;
En vor, sem eptir lifum, votar brár
Vökvi það og sorgar hreinust tár
:|: Af heimsins móðu laugi það og lúa. :|:

Í dauðans rökkri sætum sofðu blundi,
Senn verða björtu himnaljósin kveikt
Og eilíf taka mun þá vaka við
Í vist hjá Kristi og helgum sálarfrið
:|: Á hreinhjartaðra framliðinna fundi. :|:

